Handhægt

# Gardyrkju Frædi-Qver,

ætlad
midur æfdum
Kál-Bændum
til
Glöggvunar.

---

Samid,
eptir egin Tilraun og Reynslu,
af

Bjarna Arngrímssyni,
Sóknapresti til Mela og Leirár
í Borgarfjardar Sýslu.



Raunin er ólýgnust.

---

Beitistødum, 1816.
Prentad af Faktóri og Bókþryckjara
G. J. Schagfjord.

Og Drottinn Gud sagdi til Adams og Evu: Sjáid! allshátt-adar Jurtir, sem gefa sædi af sér á allri jørdunni, gef eg ydur til fædslu.

1 Mos. B. 1, 29.

# Formáli.

Þó Ritgjörd þeßi megi raunar smá-smídi heita, og hún einkum ætlud sé Vidvaningum í Gardyrkjunni, ber mér samt, med allri virdíngu, ad gjöra þeßum, eins og heidvyrdri Alþýdu, skil fyri tildrögum þeim, er framknúd hafa hana úr penna mínum; tel eg þar til: 1.) Lengi nærda Laungun ad gagnast Medbrædium í því litlu, er eg væri umkominn, og þar nærst 2.) ljúfa Skyldu vid Födurland og Fósturjördu, ad sanna þá laungun í verkinu. Skodadi eg opt huga minn, hvar eg, í tjedu tilliti, gæti komid þar fram, sem

betur mætti þykja, og heldur til nota horfa; tók mèr því bendingu af tídaña núverandi anda og ástædum, og þóktist sannfærdur um, ad þetta Frædi-efni, í hvorju Reynslan hefir lengi verid mín besta kennslu-módir, mundi máské ecki ega síst vid hvorutveggja.

Vel veit eg, ad Merkismenn hafa á undan mèr brotid ísinn í Gardyrkju-frædinni; nefni eg þartil fyrstañ Lög-manns-efni **Eggert Olafsson**, vitrañ mann og ysrid handgengiñ Náttúrvñi, med hans ágætu **Naturtabók**, er hañ mestpartiñ, eptir egin tilraun og reynslu, reit 1763, en hinn merki og lærdi Pró-fastur **Bjørn Halldórsson** leifdi oß prent-ad ágrip af 1774, hvad þó er — því verr — í allt of fárra hondum. Þar næst **Olaf Olafsson**, sídar Kammer-

Sekre-

Sekretera, med hans íslendsku Urtagardsbók af 1770, en bædi er hún fjaldgæf vordin, enda vyrdist hún sidur hent lopts og landslagi voru og vidvaníngaÞorfum, svo sem audsjáanlega samanlesin úr ymsum útlendra Ritum, án hentugrar heimfærslugar til vors kaldara himinbeltis. J. R. Trojel Prestur hefir og um sama leiti ritad um Jardepla Nytsemi og Ræktun, sem vér hösum ad sönnu á íslendska túngu, en ofsfáir ad styðjast vid, hefdi ecki Höndlunar Faktor H. W. Lever bætt Þann brest, med sinni velmeintu Avísun til Jardepla Ræktanar, 1810, Þó fleiri hér um pláts hafi farid varhluta af Þeirri frædi. Hinn lærdi Sýslumadur Magnús Ketilsson, hefir og útgéfid Tilraunir med nockrar Sádtegundir og Plöntur, 1779, sem eg Þó ecki hefi

sjed, og svo munu fleiri; — met eg mér æru ad þræda þeßara verdugu manna spor, þó lángt á eptir verdi; þvi fjærri fer eg setji Ritling minn til jafns vid fleirst a þeirra bækur, eda telji mig þeirra jafnoka od odru leiti enn því, sem viljann og vidleitnina snertir til ad vera nytsamur. Fleirstra þeßara og fleiri Utlendra Ritgjørdir, hefir eg ad vísu fyrir augum haft í minu verki, en þó vída vikid frá þeim, hvar reynslan hefir vísad mér vißari veg.

Pad frædi-form valdi eg, sem eg hugda fleirstum falla mundi best í ged, og framsetti þánka mína í Bergmáls-tón (catechismo), eda Spurníngum og Andsvørum; orvar spurníngin lyst til ad lesa svarid, og festir þad betur í minni; en varast hefir eg alla vidhöfn í

þánka-

Þánkagángi, ordalagi og ſtÿl, ſem vona víſt ad reyniſt vidſeldinn og audſkiliinn þeim, er þyggja ega, einnig ſneidt hjá lærdum ſkirſlum, ſvo ſem: um frumefni jardar-tegunda, um maturtanna módur-land, hvornig, hvenær og af hvorjum þær fluttſt hafa hér á Nordurlønd frá Auſtur-, Sudur- og Veſtur-hálſum Hnattar vors, þvi nær engin þeirra er ad uppruna frumgródi vorrar Nordur-heims hálfu.

Legg eg ſvo þeßa litlu Jórn fram á Fodurlandsins altari, ſem ávoxt 28 ára egin reynſlu, fullviß um, ad vitrir og velþenkjandi Fodurlands Elſkendur, ſem ætid unna þvi ſanna og nytſama, frá hvorjum ſem kemur, og hvar þad er ad finna, muni taka hana góds vilja verk. Legg eg þar med alúdar bón

til

til þeirra, er þyggja vilja og vegleidslu vidþurfa, ad fylgja vandlega og víkja ecki, ad óreynudu, frá reglum þeim, er qverid kénnir, mun þá Raunin verda þeim ólýgnust, en notin góð, einkum þegar hvørs eins greind brýtur sig út í frekari tilraunum, lagkjænsku og atburdum; fylgir þar med ný saklaus ánægja, þegar Urtagards-madurinn sjer verk sitt þroskast dag frá degi, undir Guds blessun, og lofa ríkri uppskéru ad hausti, margri hollri og ljúffengri Sadningu, einkum fátækra matþurfa munni um ófrjóssama vetrar-tíd.

En — audvitad er, ad nockud ervidi, en alád mikla og umhyrdingu krefur Naturta ræktin, eins og vad annad, er menn ætla sér ánægju og ávángurs af, enda mun reynd á verda,

ad

ad varla nockur ydn borgar sig þeim betur, er ecki láta sitt tilvanta, rækta vel og hyrda gard sinn, halda til þeß únglíngum, og gjøra þá med svo móti heimilinu nytsama, mun þeim líka aukast lystin, þegar siálfir Foreldrar og Húßbændur leggja vid og vid hönd á verkid, því opt er litil stund til mikils góds, einkum í heyönnum, þá fáar frí-stundir gefast fullordnum til smá-handarvika þeirra, sem maturta-ræktin naudsynlega krefur.

Ad lyktum óska eg af alhuga, ad Ritlíngurinn, svo lítill hann er, vinna mætti nýtendum þá nytsemi, sem sam-svaradi velmeintum tilgángi; teldi eg mig þá ecki unnid hafa fyrir gýg, heldur vel varid ómakinu; en þyki ein-

hver-

hvorjum hann vera nauma-smídi, sem ecki er uggvænt um, verdur ætíd tími fyrir þá, ad gjøra betur, er betur kunna.

Melum í Borgárfirdi,
þann 15da Maji 1816.

B. Arngrímsson.

---

# Yfirlit Efnisins.

## I. Grein.



## II. Grein.

Prentvillur
(sem standa í nockrum Exempl.)
Bls. 39. línu 1, les: 5 pund. Línu 2, les: 4 pund. Línu 3, les: 3 pund.

Inn-

# Inngángurinn.

Sannmæli eru: ad þad þrái enginn, sem hann þeckir ecki, þótt annars gott og nytsamt sé; sannast hefir þad á ofmørgum af oss Islendíngum, í tilliti til Gardyrkjunnar, sem fyrir sjálfrar Stjórnarinnar tilhlutun, fyrir sannra Landsvina, inn- og út-lendra, rit, reynslu og dæmi, hefir nú í rúma hálfa Øld, nær því forgéfins lengi frameptir, verid ad bjóda sig fram, til ad sanna lands-búnadi vorum hennar miklu nytsemi; enda hefir nú loks mikid áunnist, mørg landsins héród eru þegar af alþeru farin ad vidurkénna hana; Maturtagard-ar fjølga árlega, og margir, sem meiri lyst enn þeckíngu hafa á Kálræktanar


ad-

adferd, eru ad spyrja sig fyrir hjá þeim, sem betur vita. Undir hinna persónum innfæriſt þvi **Geſtur** spyrjandi, en **Höldur** svarar því einu, er hann sannaſt veit af margra ára egin reynslu á ymsum stødum, og vonar víſt, hann ecki verdi adhlæi álitinn, þó hann í meinlausum tilgángi, bjódi midur æfdum ad haguhta sér reynslu hans og þeckingu, svo lítil hún er, því edrum er Ritlíngurinn ecki ætladur. Efnid er mikils vægt og margbrotid; þó nú fáeinar einsøldustu greinir þeß verdi lángtfrá ecki til hlýtar útliſtadar á svo litlu rúmi, sem áſtædur hér afmarka, mætti samt sú linkind þar vid liggja, ad: *in magnis voluiſſe ſat eſt*, eda: í mikilhæfu er viljann æ ad vyrda.

---

I. Grein.



## I. Grein.

### Nytsemi Kálræktar, Gardlag, Ábúrdur og þaradlútandi yfir höfud.

1. Gestur. Mjer er spurn: er til nockurs ad hyrda um Kálgard?

Höldur. Já! til gódra nota getur þad komid; búbætir er þad mikill og bjargarvegur, máskje einhverr hinn ardmesti, þegar í ári lætur, en ætíd kostnadarlítill og hættulaus; þad er heimilis-prýdi og ánægju-auki, og fær únglíngum og arlaka fólki, undir eldri tilsjón, eitthvad þarflegt ad dútla vid. Jeg fæ mjer þad ecki framar til orda.

2. G. Mjer skilst þá, ad kálgardur megi hafa meir enn nafnid tómt til ad bera?

H. Gátulaust! hann verdur: 1.) ad vera vel búinn undir, lagdur á hentugum stad, í hlje sunnan- eda vestan-verdt vid bæarhús, skiemmur eda heygarda, hvar jardvegur er nógur, ad minnsta kosti 3gja qvartila djúpur, heldur þurr enn votlendur; moldin feit, laus og (ef verdur) steinsandi blandin; þar skammt er til vatns ad sækja, og lítid eitt í hallanda. Þar narst 2.) vel-

 rækt-

ræktadur, med hentugum og nógum áburdi, djúpt og opt uppstúngin, hyrdtur sídan og sinnudadur vel.

Merk: Naudsynlegt er, ad urtagardur se æ í skjóli fyrir nordan kælum, líka út- og land-nordan Prætsingum, sem vídast eru kálurtum ónotalegir, hvar þeir standa af hafi eda jöklum, oræfum og úr fjalla-klofum; þarf því girdíngin lánghærst á þann bóginn, þrádbeint hladin og hlyckjalaus, þad stendur hún best og er fegurst ásýndum; lægri má hún ad vísu undan sólu, en þó hvervetna gripheld. Fullt eins vel má girding leggjast af grjóti einu, sem torfi, eptir faungum, einúngis ad grjótgirding se tvøfold hladin, traust og svo há, sem þarf; steininn dregur ad ser il og gródurfaggu, sem hann meddeilir urtum þeim, er í grend vaxa, en þad mælir aptur fram med torfgardi, ad med grasi því, er ríkuglega af honum fellur, gjørir eganda íhaldinn fyrir grasnám þad, hann má ske lída verdur vid gardstædid. Vid því þarf gardlags-madur einkum ad sjá, med vindaugum og grøftum á hentugum stødum, ad aldrei standi vatn til lengdar á urtagardi, því þad skemmir mjøg, sterpir og súrir jørdina. Þegar svo á plátzi stendur, má líka gard leggja handa nedirjardar gróda, eda Rófum, Næpum, Jardeplum, andsælis í brekku; en yfirjardar-kali er stada sú midur hentug. Gardsform kyldi sem nærst rettum ferhyrníngi, þad

þad giefur drjúgara innanrúm ad jøfnu ummáli, enn ef aflaung er myndin.

3. S. Hvønær er hentast kálgard ad byggja?

S. Hentast er þad ad haustii, svo þvi fyrr megi taka til verka ad vori komanda, skal þá gardlendid strax tadt, uppstúngid og duglega umvelt svo djúpt sem verdur, ad allar tægjur og grasrót, sem ecki vard notad til girdíngar, nái ad fúna og sundurlosast, en tadid blandast sem best vid moldina; giørir þad jordina gljúpari, myldnari og hentari ad taka á móti loptsins verkunum, er hún strax ad vori skal á ný uppstúngin. Vel má gard líka ad vori leggja sem fyrst má, vegna klaka, en þá verdur vandlega ad hreinsa burt svard allann og rætur, ádur tadt er gardlendid og uppstúngid, sem nú liggur einkum á ad gjora dyggilega, ad minsta kosti tvisvar; því optar, djúpar og smærra sem upp er stúngid, því betri er von góds ávaxtar á eptir.

4. S. Hvør eru audsærust merki til hentugrar maturta moldar?

S. Ad hún se brún eda svartlitraud á lit, laus, þvøl og mjúk ótektum, en beisksæt ad smeck; er þá jord vissast ad finna, þar gód grasrækt er, í hall lendi sunnan- og vestanverdt vid bæi, penings hús og haugstædi, hvar helst er

í Hlje fyrir nordan nædíngum, vallgángur er tídastur, óklárindi berast út og renna frá þessum stødum. Hjer ver ætid arfi og slavak best, viðastur vottur, ad jørdin er feit og hentug mát-urtum, þegar hún med yrkíngunni temprast, blandast og ræktan kemur til.

Merk: Aňars getur maňleg greind og íþrótt ræktad allar jardar-tegundir til maturta, einkum rófna undir jørdu, jafnvel versta aur- og leir-jørdu, med því ad blanda hana skeljasandi, eda þeim bláleita steinsandi, sem finnst vid ár og lækja farvegu, vída í bøckum og vid sjó. Sandur se aptur á móti blandiň leirjørdu, en mikiň og hentaň áburd þarf þar á ofan til hvørutveggja.

5. G. En má ecki nota gamlar rústir, tómtir og øskuhauga til maturta ræktar?

S. Vel má þad, þegar afstadan er aňars hentug, vel adskýlt fyrir nordan kuldum, dug-lega, djúpt og opt uppstúngid, hnausar og torfu-kleplar, sem ecki verda smátt muldir, grjót og óhrodi burthreinsad, moldin sídan áburdi bland-in, og ødrum jardartegundum

Merk: Gamlar fjósa-, fjár-, og hesthúsa-tómtir og riettir, þurfa svo lítinn sem engann áburd í fyrsta siňi, en adrar húsa-rústir og øskuhaugar heldur; á þar best vid gømul nautamykí moldarkennd, úr haug-

hangstædum nedan; æskunni hentar vel, ad saman vid hana se Þaradauki blandin smámulin torf, eda vel fúin veggja-mold.

*S.* G. Hvørr er áburdur hentastur til kálræktar?

H. Hvørskyns tad, sem brúkast skal, er Því ad eins hentugt, ad Þad se eins eda tveggja ára gamalt og fullbrotid. Þó er Saudatad reynt hid hentasta fleirstum jardar-tegundum og matjurtum, hefir tempradann il í ser, er kraptagott, feitt og myldid. Því næst er Nauta-myki ágæt til gardræktar, Þó hún nockud hita, og fitu-minni se, sem Þó ser mikid eptir fódurgædum; á hún einka vel vid æsku- og sand-blendna Þurra jördu, sem hátt liggur og í hall-lendi. Þá er Hrossatad, sem fellur frá eldis-hestum, dágott, serdeilis á lágt, rakasamt og kaldt gardlendi; vermir Þad, losar, mýkir og feitir moldina; nýtt má Þad líka brúkast á Þessa stadi, en Þó er Þad Þá hentast til vermibeds. Mannasaur má líka telja, en einkum Þvag, Sod og Þvottakorg, er berst út af bæum á vetrardag, sem allgott ræktar medal vid kálgarda, einúngis se sú varúd vidhöfd, ad bera Þetta aldrei opt á sama stad, heldur fram og aptur um allt gardlendid, orvar Þad sína sallt og dýrafeiti, sem í Þessum hlutum er, ávøxtinn einka vel sumarid

eptir,

eptir, en sakar eckert smeckgædi aldinsins, þegar því er hætt sudverdlega á Einmánudi. Glad, Forar, og Mótorfs-bleyta, ad hausti og framanaf vetri áborin og breidd, er og allvel notandi á láglendis reiti, hvar hættast er vid ad vatn hafi vidnám á vetrardag, en þó skal þessar tegundir blanda med betra áburdi, mun svo til gódra nota koma.

Merk: Adgætandi er: ad eptir fódurgædum fara ávallt tadgædi; þannig er tadfall frá lömbum, sem vel eru haldin og optast alin á gódu fódri, einna best, og mun betra en útigángs fjár af slokum mýrar-högum. Eins er þad í tilliti til kúamykt og hrossatads. Nú stendur svo á í ýmsum herædum, ad elda verdur saudatadi, og má því ecki til gardyrkju missast; þá er ýsrid vel fallid, og annars hvervetna, ad hagnýta skarn þad, er mokast út úr saudqvíum á sumardag, skyldi því til drýgindu bera moldu úr flögum eda þúfum, ef þar eru í grend, inná qvíagólfid, og láta fjed troda þad nidur og samanvid tadid, moka svo út ad viku fresti, verdur þad besti áburdur ad ári lidnu; ecki heldur mundi þrifnadarmadurinn telja þad eptir úngliugi, ad moka hvad eptir upp allar kúaspentur á stödulbóli, og safna í qvíahauginn, heldur enn láta þær skjænast upp ad ónýtu, á þeim tíma, sem peníngur fellir besta tad.

Aska

Akka hrærd sundur í þvagi, og vidarsag, dreift um gardreiti, ervar líka, mýkir og bætir jardveg til frjófsemi. Og ad lyktum er gott ad grafa húsdýra hræ, horn og hár nidur í vermibed og sádbeck, í sama tilliti. Nægilegur áburdur á sæmilega ræktada matjørd, er 1 tadkapall á 2gja ferfadma petti,' þarf þá 8 kapla á gard þann, sem er 4 fadmar á hvørn veg, 13 kapla á 5 fadma ferhyrníng, 18 kapla á 6 fadma ferhyrníng, og s. frv.; en sjálfsagt er, ad óræktar jørd krefur helsíngi meiri tedslu, og þar Jardepli sett eru í sømu jørd nærsta ár.

7. S. Hvør eru þjenanlegust gardverkfæri?

S. Ur því gardur er lagdur og grasrót afsumin, hvar til brúka þarf pæl og rekn, heuta best eptirfylgjandi gardyrkju verkfæri:

1.) Pælreka, lipur og lagleg, heldur fleiri enn ein, eptir heimilisefnum og únglínga toln, sem til gardvinnu notast kynnu, er hún miklu ljettari kraptalitlum ad stínga upp med, veltir og dýpra enn pællinn, líka hentari ad moka med, einkum gánga millum reita, enn rekan. Hana getur hvørr sá, sem rekn kann ad smída, hæglega tilbúid med tindi, skákum og fram-mynntu vari, 4ra eda 5 þumlúnga breidu nidur í midju,

af hvørju til beggja enda gángi løm vel uppá skákina, og þar-rónagli í gegn til styrktar, en neglist ad nedan med 3'ur varnøglum, sem ønnur reka, en hún skal á tindinum ofan. Er þetta verkfæri kostnadarlítid fátæklíngum.

2.) Hrífa sterk og stadgód, má vel vera sørnnarhrífa med oblugu høfdi, og stinnum, helzt sivølum tindum, til ad berja og jafna med yfirbord reitana. Smáhrífa, med qvartils laungu høfdi, hentar til ad jafna og hreinsa med gøturnar.

3.) Haki, ómissandi til ad snidka med bed, og hlaupa ad þeim utan; er þad bædi til prýdis og moldin blæs sídur úr børmunnum; brúkast líka og þjenar vel til ad rísa og høggva med arfa úr gaungunum, hreykja moldu upp med kálstofnum og jardepla, rífa rákir millum kálreina, hvørs nytsemi mun sídar sýnd (sjá 24 sp. og fl.). Er verkfæri þetta þríhyrnt járnblad, qvartil á hvørn veg; úr eini hlidinni midri gengur tángi, sem vinkilbeygdur gengur upp í skapt hálfrar 3ju álnar lángt, ad því betur náist til, er þarf.

4.) Drifkanna til ad vatna med sádreitum og úngpløntum; má hún vera sem dryckjarkanna eda uppmjór dallur, gjør med handarhaldi ødrumeginn, en stút hinsvegar, sem gángi út

midur

nidur vid botninn, og rísi upp jafnhátt barminum, slái sér vídt út ad ofan, vidlíkt og trekt, med eir- eda látúns-botni, gagngötudum, fyrir opinu; um þessi göt náir vatnid, smádöggu líkast, ad dreyppast yfir enar úngu plöntur. Betur fer ad hálf-botn sé ad ofan stútmeginn, og gángi af honum lögg eda listi yfir um stútinn til styrktar. Hvílík gardkanna er naudsynleg og velnotandi fátækum; hinum þarf ecki rád ad kenna.

Merk: Hjeradauki hentar Vallar-qvísl vel, ad mylja tadhlössin ádur dreifd eru út um gardinn. Svo þarf og Snúru af hampi eda hári med hæli til beggja enda, ad afmarka bed og gángrúm, svo laglega fari. Gardrísur er og hentugur heim, er meira gardrúm hafa. Gardrísurinn er grind ein, hálf önnur alin á lengd, en 3 qvartil á breidd, med 3ur rimum eptir endilanngu, settum sívölum háum tindum á víxl, þó lægri í optnstu riminni; skal hann dragast um reitinn endilángann, 2svar eda 3svar, fram og aptur, er þá bædi mulid og sljett bedid, og þarf lítid med hrífunni umbæta.



## II. Grein.

### Voryrkja, Sáníng, Fræsetníng og Plöntun sérílagi.

8. S. Hvör er nú helzta gardyrkja ad vori?

H. Þá skal tilbúid Vermibed, lagdur Sádbeckur, sád frævum, bætt um tedslu, ef vidþarf, gardlendi uppstúngid og undirbúid, sett rófna fræ, og úngplöntur gródursettar.

9. S. Hvar, hvenær og hvörnin skal Vermibed tilbúid?

H. Þar sem best skýlir ad, andsælis undir nordurvegg, eda í húsasundi; skal þá hid fyrsta vedur leyfir, um eda eptir Sumarmál vid útgaungu Aprils og byrjun Maji mánadar, grafin gröf hálf alin á dýpt, rúm alin á breidd, og laung eptir þörfum og gardmegni; nú se ofaná barmana allt um kríng, hladin lítilfjörleg gird-íng af gardtorfi, qvartils há ad framan, en hálfs annars ad ofan, med litlu gángrúmi í kríng, svo allstadar megi adkomast, og vatni veiti heldur frá, enn haldi ad, þá se gryfjan, uppundir torf-

torfbrygginna, fyllt nýu, gódu hrossatadi hári blöndnu og tedu-mylsnu, sem hvorttveggja cykur gáng og hita í tadinu, þegar því er þvagreku nockud, þó ecki mjøg, samanþjappad, þar á ofan se borin gód, þurr, vel barin og fúinni myki blandin mold, og fyllt svo nær grofin, ad lítid bord se á hana, má þá moldu uppgrafa þar þurr er grunndvollur innanbæar, í lamb- eda hest-húsi og fjósi. Nú er hrossatad ecki til, þá er betra enn ecki, ad brúka kálfahroda og lambarosm hári blandid.

Merk: Tadi því, er ætlast til Vermibeds, má ecki útmoka úr húsinu fyrr enn brukad er, og er því betra, sem hár þad er af hestinum kembir, þegar útá liggur, blandast þar saman vid. Betra er ad höggva upp klaka, ef í er jørdu, undir vermibed; leggja má þad og andsælis á fjós-þaki, þarf þá eckert undirlag af tadi, en umbúnad því betri. Gródrarstía er ad sønnu krøptugari, til snemmbyrjads gródurs, enn vermibed, en þar hún er miklum mun kostnadarsamari, krefur glas- eda pappírs-hlera yfir sig og vandhæfari umbúnad, hentar hun þeim einum, er nockurt bein hafa í hendi. Sjá O. Olafssonar ísl. Urtagardsbók, 3 Kap., bls. 11. Chr. Sommerfeldts Afhandling om nyttige Have Væxters Dyrkning, Pag. 9. E. Olafs-

Olafssonar Matúrtabók, 12 Kap., blſ. 45.; ſýna þeßi Rit ſamanborin, tilbúning og nytſemi Gródrarſiiu, Þeim ſátækari mun nægja vermibed.

10. G. En til hvørs er þeßi fyrirhøſn fyri Vermibed ſerilagi?

S. Omißandi er hún til ad geta ſem fyrſt fengid gródurſetníngs pløntur, er þad nú þeirra káltegunda, ſem ella ecki nád geta neinum ſerleg- um þroſka, fyrr enn máſkje ſeint og ſídarmeir.

11. G. Hvørjum káltegundum hentar þá helzt ad ſá í Vermibed?

S. Øllum yfirjardar káltegundum, ſvoſem: Blóm-, Græn-, Hvít-, Krús-, Raud- og Safa-káli, má þá ſídar ſá Kálrapa yfir og undir jørdu, ſamt Snidkáli í ſádbeckinn; en adrar rófnategundir, ſem þunn og veik blød hafa, og helzt vaxa undir jørdu, ſvoſem: Næpur, Bót-felſkar, Laungu- og Hnøttóttu-Rófur, ſer beſt ad ſetja út korn fyri korn, má og þá adferd brúka vid undirjardar Kálrapa, ef þarf (ſjá 18du ſpurn.).

Merk: Þeir ſáu, ſem þeckja og hafa vit á ad færa ſer í nyt krydd- og lyſt-urtir, t. d. Sallat, Gardmurur eda Gulurætur, Karſa, Kervil og fl., vita líka, ad þeim til

til tímgunar í fyrstu, þarf Gródrarstíu eda Vermibed. Um Hvanna- og Piparrótar rækt, samt Skarfakáls í aldingördum, er verdt ad lesa í E. Olafssonar lærdu Naturtabók, §§. 56. 107. 120, en litils Rúms vegna, leyfir hjer ecki fleiri skíringum þar vid ad bæta.

12. G. Mig fýsir ad vita um Sádbeckinn, hvørnig hann er lagdur?

H. Lagdur er hann rett vidlíkt og vermibedid, og á sama stad, einúngis ad hjer er eckert tad til undirlags og hlýinda vidhaft, og því ecki í hann sád fyrr enn linar mestu nætur frostum, og hlýindi taka ad verda náttúrleg.

13. G. Hvad er athugandi vid Sáninguna?

H. 1.) Tídin, eda ad sád se í stilltu, þyckn mollu vedri, helst ad álidnum degi, þegar teiknar til gód- og stad-vidra á eptir; vøxt og minkun Túngls þarf miklu sídur adgæta. 2.) Adferdin, sem er sú: ad þegar vel er búid ad mylja moldina, og jafna bedid eda beckin med hrífunni, svo engin lægd eda mishæd se, því sídur kocklar ad sjá, skal dreifa frækornunum hægt og laglega úr lúku sinni þannig, ad ecki falli nema 2 eda 3 korn í senn, jafnt út um allt þettid, sem nú

afmarkast skal med litilli rispu í moldina, fyrir hvörja frætegund, sem sád er. Ad því búnu er frækornid særad, med ljettri hrífu, smátt og lipurt nidur í moldina, dreift þar yfir þurri tadmylsnu, sem um leid er mulin millum beggja handa, og loks smáum steinsandi; ver hann arfa, en dregur til sín hlýindi og gródursagga af loptinu. Nú er, til varúdar vid frosti og áreitni húsdýra, spilad yfir hvört heldur Vermibedid eda Sádbeckinn, má til þess raptsprek nota, ef ecki eru faung til betra, hvar á ofan se breidt nýhöggvid laglegt smáhrís, þjett og haglega samanslækt, skýlir þad bædi fyrir kulda og ofmiklum sólarskrælingi um daga, enda má þessi umbúningur fyrr þó vokvad se, en yfir allt skal breida med meldýnum, fotum eda reidingi ad qvöldi hvörju, ef frost er ad óttast; rídur helzt á því um og eptir þad fræid er ad springa út, því þá er úngplantan vidqvæmust og þolir sist frost eda annad loptsins ofriki.

Merk: Reynslan hefir sannad, ad þótt í sádreit frjósi skömmu eptir ad sád er, sakar litid eda ecki, hafi fræid annars gott verid.

14. G. Hvör eru kennimerki á gódu og duglegu fræi?

S. Þegar þad er hreint og ecki moskad, fullt og vel hnottótt, gefur skarpbeiskann og lif-

leganu smeck, þá nockrum kornum brugdid er i munn ser og tuggin. Leggja má kálfræ í vatn, sockur þá ad stundu lidinni þad nýtandi, hitt flýtur; en illa verdur þeirri prófun vidkomid í kaupum, lika þarf laglega ad þurka vætt fræ vid vind en ecki sólu, ádur því sád er.

Merk: Um Frjóvirt eda ofrun fræva til frjófsemi, sjá E. Olafssonar ágætu Maturtabók, § 20. bls. 18.; en varla mun sú tilraun ollum hendt vera.

15. S. Hvad er til ráda móti skemdum, ef frost kynnu grípa sádverk?

H. Þá er best strax ad morgni, sem sól kemur vid, ad vøkva med køldu vatni, eda, sem betra er, tæru mykju-vatni, dregur þá ad vormu spori kuldann úr moldinni, en fræid, ef gott er, sakar ecki, nema komid se undir ad springa út, eda í fædingu, þá er heldur skemda von, og þarf því vandlega vid þeim ad sjá, eins og ádur er ávikid. (Sjá 13du spurn.)

16. S. Er nú fleira vid sádverk ad athuga?

H. Já! ad vøkva med Drifkønnu i þurkum og þræsingum, helst framanaf degi, þegar sól er á sádbeck genginn, reita strax, en gætilega, arfa og ógresi, sem þetta fer ad sýna sig og þeckiast

 frá

frá úngpløntunum; það hýfir moldina, opnar hana fyrir loptsins verkunum, og varnar að hitt ógresi nái að draga kjark úr og frjóvsefva frá urtunum.

17. S. Hvað er nú hjer næst við Garð að gjøra?

H. Jafnóðum og klaka leysir úr jørðu, skal hann uppstúnginn fyrir eða um Krossmessu, og aptur undir Fardaga, eptir því sem viðrar og vorar, en áður skal með vallarqvísl vel mylja áburðinn, sem best fer liggi í hløssum, eins og bleypt var að hausti, nema þá hafi strax verið úr þeim mokað og um leið uppstúngið. Nú er garður, sem sagt, vel uppstúnginn, þá skulu mokaðar gøtur, grunnar ef þurrlendt er, en dýpri se rakasamt, og beð tilbúin, svo løguð sem hvørjum þóknast og á plátsi stendur, einúngis að vel megi tilná frá báðum eða øllum síðum, að gjøra það viðliggur.

Merk: Eins skal uppstínga gøtur er vóru hið fyrra ár milli beða, sem beðin sjálf, og stilla svo til, að beð svari nú gøtu áður, með því móti vinnur hvílda gøtu-moldin gagn á víxl við þá tæmdu í beðinu. Engi þørf er að berja mold með kláru í urtagarði, einúngis að vel djúpt og smátt se stúngið

stúngid upp, má þá slá um leid sundur kocklana med pælrekunni, jafna sidan bedid med hrífunni vel ofan, med því ad raka um þad lempilega fram og aptur svo egg-sljett verdi, en hismi því og forakocklum, er þá eptir verda, má skara ofaní göturnar. Nú skal klappad bedid utan, eptir snúru, og má svo standa uns í þad verdur sett eda plantad.

18. G. Nú er mjer fýsn á ad heyra, hvörnig fræ skal setja?

H. Þad verk fer fram á þann hátt: ad einn gengur undan, og markar fyrir med hæli, hálfs annars qvartils bil milli hvörrar holu, handa áminnstum Rófna-tegundum (sjá 11tu Spurn.); skal byrjud 1ta rödin, ad svari 2ur þuml. frá beds brún, þadan mælir hann aptur 1½ qvartil uppí reitinn til nærstu radar, sem afmælist eptir taumburdi, markar sídan midt á milli 2gja hola ad framan, svo á víxl standi götin; eptir honum gengur annar med fræid í bolla eda smábotjeli, tekur fáein korn millum þumal- og vísi-fíngurs, en krafsar um leid moldina med midfíngri ofaní markholuna, uns hún er svo nær full ad svari naglar djúpt eda frekum þumlúngi eptir, þá lætur hann falla 2 korn, til

vara,

vara, ef annad kynni lítt- eda ó-nýtt vera, og sópar svo med sama fíngri smámold yfir, ad holan nær því fyllist, byrjar svo med nærstu-rød, og heldur þessu áfram, uns settur er hvífingur bedsins, þá er byrjad og eins adfarid hinsvegar, verdur þeim hægt til ad ná, þegar bedid er 1½ alin á breidd og 4 eda 5 radir eptir lengdinni, því vera má ad ecki se haft nema qvartil á milli, ef gód er jørdin, laus og feit, en lítid gardsrúm. Lengst þarf ad ætla millum Næpna og Kálrapa róta. Adgætast þarf, ad vedur se lygnt, smádøgg eda líklegt til deigju, þegar sett er, ella þarf strax ad vøkva med kønnunni hvørt bed, sem búid er.

Merk: Komi nú, mótí von, þurkur uppá og þerrivindar, þá verdur ad vatna, og þad duglega á degi hvørjum, en ecki þarf þess í mollum, nema máskje 2ann eda 3ja hvørn dag. Fræs uppkomu er í fyrsta lagi von ad 5 daga fresti, þó med því mótí, ad allt se vel í gard búid og vedur annars mildt og hagstædt.

19. Sp. Má mun ecki sídur athugaverdt vid pløntunina?

S. Víst er þad mikils athuga verdt, ad úngpløntur eckert kremjist, linist eda brotni, þá upp eru rættar úr sádreit; en þá eru þær nóg þroskadar til ad gródursetjast, er hjartablødin

eru

eru vel farin ad vaxa fram milli nýrnabladanna, (svo nefnast þau fyrstu nýrnamyndudu blød). Nú sem 6 eda 7 vikur eru af Sumri, allt til Sólstadna, skal velja mildt vætu-vedur til plentunar, og brúka sømu adferd med ad afmæla bil millum planta, sem vid fræsetníngnna, nema bilid skal nú frekara, hálf alin milli Yfir- og Undir-jardar Kálrapa, en 3 qvartil milli Hvítkáls. Þá tekur Plentunarmadur sér í hønd sívalann trjestutul, sem flatur se eins veg' ar, og eptir þad plenturnar eru samstundis uppr ættar úr sádreit, sem gjørast verdur úrtøku varlega, med því móti, ad stínga flatri høndinni uppílopt svo djúpt í moldina fyrir nedan plenturnar, ad enginn rótar-ángi slitni, losa sídan hverja plontu frá annari, sem þá eru lagdar á disk, rót vid rót, og blød vid blød, lítt dubbadar, þad er: róttinni brugdid í nýrrar mykiu velling, sem betra er til næríngar henni og frjófgunar, ser hann ad planta þannig: hann stíngur stutlinum, med hægri hendi, lódbeint nidur í farid, þ.r markad var fyrir, tekur um blød plentunnar med hinni, og leckar hana ofaní holuna, svo rótin hvørki beglist nje blødin sockvi í kaf, og þrýstir nú med flatvegi stutulsins, er

tekinn

rekinu er skamt frá nidur med rótinni, þjett og jafnt ad henni, eins ad nedan sem ofan, og heldur svo áfram med sama hætti.

Merk: Se þessarar adferdar vel gætt, mun plantan trauðla útdeya; gott er líka ad hella strax í farid, sem verdur eptir plöntunnar stútulinn, mykjuvatni med thekatli eda ødru stút íláti, einkum se þurk ad óttast á eptir, en varast þad berist á blødin. Plantan, svo vel fari, er eitthvort hid vandhæfasta verk vid gardyrkjunna, lærist því vissast med egin sjón hjá þeim, sem lagkjænir eru, og vel hafa lært ad því verki. Til sjónfegurdar skyldi ljósleitasta kálid, svo sem: Blóm- og Safa-kál, gródursetjast í midid, þá Grænkál, Raud-kál og Hvítkál ytst vid beck eda gard, þad elskar helzt hlje og rakasama, feita, láglenda jørd ytst og nedst.

20. G. Nú skyldi þurkur og sólskin strax á eptir uppáfalla, hvad er þá til ráda?

S. Þá skal vatna strax ádur sól kemur vid ad morgni, og eptir þad hún er af gardi gengin ad qvøldi, skal þá hellt í plöntunarfarid udur med rótinni 3 eda 4 daga eptir, uns plantan er røknud vel úr dái og farin ad standa. Varast skyldi ad vatn berist uppá blødin ad morgni, þad skrælir þau, en ad qvøldi er þad sídur saknæmt.

næmt. Ur því plantan fer vel ad standa, nægir ad hreidrad se hóglega moldinni med 2ur fíngrum, fyrst um sinn, upp med henni, þó svo, ad hjartablødin ecki hylji, og má úr því slá sløku vid vøtnun,

21. G. Nú gánga síseldir þurkar, en pløntur eru fullþroska til gródursetníngar?

S. Sá er vel kann ad planta, vølar þá ecki fyrir sér ad reyna ment sína, velur hann til þeß mjúkt vedur ad qvøldi dags eda um nóttu, vøkvar strax sem plantad er, duglega hjá hvørri pløntu, og svo nærsta morgun, eptir reglunum í 19du og 20tu Spurn.

Merk: Þegar plantad er í hallanda, skyldi rauf litla giøra med fíngri eda hæli forbreckis vid hvørja pløntu, til ad hella í, nýtur rótin þá betur vøkvans.



## III. Grein.

### Sumar-hyrdíng, Arfanám, Hreykíng, &c.

22. G. Hvørs krefur Sumar-hyrdíng vid Kálgard?

S. Þá skal afnuminn arfi og ógresi; rispadar rákir kálreina á milli; hreykt moldu ad urta-

urtastofnum; neytt frumgróda, og kálid bladad eptir þörfum.

23. S. Er nockurs serlegs ad gjæta vid Arfanám?

S. Vid því þarf vandlega siá, ad arfi ecki vaxi ofhrøpum og kjæfi úngurtir eda dragi kjark úr þeim, sem hætt er vid, ef ecki er í tíma vidspornad, med því ad nema hann jafnódum og vaxa fer, og reita upp med rótum, fyrst um kríng sjálfa plöntuna stillt og lempilega, og þá fríara útífrá; þarf þess einkum ad gæta vid þær settu káltegundir, sem hætt er vid ad verdi mun seinni ad sprctta fram enn ógresid, einkum hafi þeim sád verid í nýa ofræktar jørd, eda þá tødd var med ofúngri óbrotinni myki.

Merk: Þad kostar víst boginn hrygg, er og líka leidindá verk ad nema arfa, en þad umbunast ríkuglega med ávextinum ad hausti, og því vandlegar arfi var upprættur úr bedum og gaungum hid fyrra ár, því minni vex hann sídar, ef þar jafnframt er varast, ad tedja urtagard med arfanærandi áburdi, heldur gamalli myki og fullbrotinni, sem sagt er í 6tu Spurn. Allteins vandlega skal hreinsa gángana, sem bedin sjálf, er þad fljótt og hæglega gjørt, hvad gángana snertir, med Hakanum (sjá 7du Sp. No. 3), skal svo rosmi

þessu

þeßu safnad í hrúgur, sem berist útá tún, strax sem þeßi eru slegin og hyrdt, er þeim þad besti áburdur. Þad skyldi hvørium húßfødur hugarhaldid, sem yfir únglíngum hefir ad segja, ad venja þá til arsanáms og annara handtaka vid gardyrkju, má þad vel notast, þegar þeim er laglega sýnd adferdin, og augad jafnan haft á og med þeim, ser þá best ad ánafna hvørjum sinn vißa reit, keppist þá úngfólkid hvørt vid annad, ad sem best fari hjá ser.

24. G. Nú þægi eg gjarnan ad vita, hve rispa skuli rákir kálreina á milli, og til hvørs þad á ad þjena?

H. Gjørast skal handtak þad med Hakan, um, hvørs midhyrnu stúngid er vid reitsendañ nidur midt á milli planta-reinanna, og svo lidkadur lempilega áfram eptir endilaungum reitnum; opnar þad jørdina, rótar um arfa rætlíngum, og hindrar þannig hans frjósemi á ný, en endurnærir urtirnar med nýrri moldu, sem nú hreykist upp ad þeim beggja vegna vid hakafarid, og regnvatnid hefir betra vidnám í rákum þeßum, vokvar og frjófgar ræturnar; er svo ad lyktum þrýst med bádum høndum enni nýu mold upp med stofnum urtanna, sem gjørast verdur hóglega medan þær enn eru lítt sprottnar; kallast

 þad

það í einu ordi, ad hreykja (hjá Dönum heitir það, at hyppe).

Merk: Ondverdlega í Júlío, um og eptir Þingmaríumessu, þegar plöntur fara ad vaxa og arfi er numinn í fyrsta sinni, má rispa beð og hreykja um leid; ervar það vextinn ágætlega allri vætuun framar.

25. G. Þarf nú hreykíngu framar ad ítreka, eda hve lengi?

S. Þeß betra því optar, einkum þá storm- ar gánga, og vilja slá útaf plöntunum, liggur á ad reisa þær strax vid aptur, og hreykja moldu upp med þeim, annars á viku fresti til útgaungu Júlii mánadar, úr því einusinni í hálfum mán- udi til Höfuddags; serdeilis þarf þeß ad gæta vid Hvítkál, annars allann yfirjardar kálávöxt, sídur vid rófnategundir, þegar á fer ad lída, nema þegar Næpur og Rætur vilja skaga uppúr moldu, þarf ad sópa henni yfir þær heldurenn stíga þær nidur, sem hveckir vextinum.

Merk: Betur fer ad rispa reiti í ødru sinni um það leiti plantan er qvartils há vaxin, og þá dýpra enn í fyrstu, en øllu framar sjá vid ad arfi spretti á ný, allra síst setji fræ eda felli.

26. G. Hvenær má fara ad neyta frum- gróda Aldingards síns? S.

5. Þegar kál er vel qvartils hátt, eda svo þroskad ad þoli vind og vedur, sem í gódu ári þrátt skedur í 13du og 14du Sumarviku, má fara ad blada þad, einkum Kálrapa undir jørdu og Snidkál; skal þá med knífi afnema nedstu blødin, sem liggja vid jørdu, og um leid hreykja upp med stofninum, tekur kál þá æ betri þroska á eptir, og verdur vilkugra ad vaxa; ad hálfum mánudi lidnum má aptur leita ávaxtar hjá sømu pløntu, en ætíd skal varlega blada, og ecki nema nedstu blødin, sem annars vilja følna og falla af, ella dregur þroska frá rótinni hjá þeßkyns káli. Snidkál þolir best þótt, opt se blabad, bædi er þad vilíngast ad spretta, enda hefir þad engri ætilegri rót fyrir ad fara.

Merk, Varlega skyldi vana plontur þær, er menn ætla sídarmeir til frætimgunar; annars má því drjúgar blada, sem nær lídur Høfuddegi og Haustí. Vel má nota þridjúng, já, helfíng af Rófukáli móti Matkáli, þad er: því sem enga ætilega rót hefir, og undirjardar Kálrapa, sem því er hentastur fátækum til ræktunar, ad bædi eru blødin fullgott matkál einúngis, rætturnar hnúffengar, þjettar, og geymast best til vetrarførda, enda er sú káltegund, nærst Snidkáli, vilíngust ad vaxa. Vel er faktið

að brúka smáskorin Fjallagrøs til að festa með kál svo greytist, í mjøls stað; draga grøsin gróðskusmeckiñ frá kálinu, sem mikið er meðan það er í vexti, en það aptur beiskjuna frá grøsunum, svo verður holl og góð fæða, samanhrært við skyr og mjólkurmat, en sparar fátækum, já, landsbúnaðinum yfir høfuð hin kostnaðarsømu mjølfánga kaup.

27. G. Er eckert ráð móti ormum, sem fólk qvartar ··m að spilli kálvexti?

H. Já, opt er í mollum og hitum hætt við stórskemmdum af yrmlíngum, sem bæði stínga bløðin, og — hvað skaðsamast er — leggjast um kríng støfninn niður við rótina og naga pløntuna, svo hún visnar upp og fellur af. Strax sem þessa vart verður, er reynt gott ráð, að taka sót, hræra það sundur í vatni eða stæku þvagi, og gjøra velling af, rispa síðan renna með fíngri eða spítu umhverfis hvørrar pløntu støfn, og hella nefndum sótvellíngi þar í, og mun hlýða; eins notar gegn ormstúngum að dreypa sótvatni að qvøldi með køñuñi yfir bløðin.

Merk: Illyrmi þessi, sem ásækja kál, einkum meðan það iúngt er og í vexti, eru svartir eða døckmóraudir að lit, heldur aflangir og svalir, þúngfærir í hreifíngum, rettir selakeppir, reisa þeir sig upp úr moldiñi, þegar

þegar hún, eptir dags-hitann, tekur að dampa undir nóttina, og naga svo blöðin, er þeir ná til, að gat verður eptir. Hinir, sem hríngvefja sig umkríng stofnana, eru fullkomnir 12fótúngar, stærri vexti og — þegar þeir þroskast — bleikgrænir að lit.

28. S. En hvør er orsök þess, að kál opt spírar eða hleypur upp í njóla, eða er nockur vörn við því?

S. Vanþrif eru það mikil í kálverti og hnekkir illa notum hans, trjenar rót og leggur, en stöngin hleypur í blóm; valda því helzt 3 orsakir, nefnilega: ofrækt eða órækt í jörðu, og ella litt eða óroskuað fræ. Við öllu þessu verður Urtagarðsmaður vitulega að sjá hvað hann getur, þar við öllu því liggur bót nockur. Ofrækt getur í þessu falli eins skaðleg verið, sem órækt, en þá er ofrækt í jörðu, þegar hún hefir meiri fitu og hita enn nærandi frjóígnuar-tegund í sér, og þannig er öllum nýum og óbrotnum áburði áhættað, einkum se hann borinn á hálenda þurra sandjörð; því er að framan ráðið til að brúka einúngis gamalt tað, og nota hvørja áburðar tegund eptir ja. dlagi Se nú þess vandlega gætt, mun aldin síður hlaupa í njóla, og ofræktin tempraft; en við órækt liggur bót

sú, ad blanda jardar tegundum ásamt nægum og hentum áburdi. Við óroskaudu fræi er vandhæfara í kaupum ad sjá, og er því best menn læri ad abla þess sjálfir, sem sídar mun sýnt verda (sjá 32. Spurn).

Merk: Fita og hiti einsaman drifa vöxtinn til hædarinnar, en stofninn verdur grannur, en hid temprada frjófgunar sallt, sem tilreidist í gamalli mykí, gjörir urtakálsana þreknari og stofna gyldari. Um hentasta áburd, sjá 6tu Spurn., og um blöndun jardar-tegunda, og áburdar skamt á óræktar jördu, skíringarnar vid 4du og 5tu Spurn, um gódfræva merki 12tu Sp. Ad afnema spírur jafnódt og spretta fram, er ad vísu best, til ad nota þær ádur trjena, og efla vöxt bladaña sem eptir standa, en ecki læknast vanþrif plöntuñar ad heldur.



## IV. Grein.

Uppskéra, Innsefnun, Höfpan Káls og önnur notkan þess og Rótna til Vetrarforda og Frævatekju.

29. S. Hvad snemma má byrja uppskeru maturta?

S. Ur því lídur Höfuddagur, vid útgaungu Augústs mánadar, fer vedur tídum skjeðast en

gródi dofna, má þá strax byrja med ad skiera öll ytri blød af Rœpum og Rófum, uns ecki er eptir nema stúfkorn af hjartablødum, sópa sídan moldu duglega og þrýsta upp ad stofnum og yfir rœtur þær, sem upp af jordu kynnu vera vaxnar, láta svo standa og vaxa, ef vedur leyfir. Eptir Rófnakálid, svo sem þad, er þyñstu blød hefir, og því hættast vid skemmdum, skal eins farid med Kálrapa undir jordu, þau afnumdu blød seu þegar þvegin, þá skorin eda sørud og sodin í litlu vatni, hellt sídan mestollu seydinu frá og kálid látid kólna 1 dægur. Nú er því annadhvørt komid í skyr eda samhellings mjólkurfasn, ella einsømlu í lagarheld kjer, berjad, ef verdur, giørt yfir, og látid standa og brjótast fram á Jólaføstu, verdur þad þá sœtsúr, smeckgód og nœrandi fœda med mjólk eda mjólkurvellingi. Hvítkál skal strax, sem merkist nætur frost, skerast frá stofni og innberast, látid svo liggja í 7 til 9 daga, uns skorid verdur til selltunar, en bædi skal þad þurrt og í þurrvidri innborid, lagt nockud dreift, en ecki í stórhrúgur saman; annars má þad strax, ef vill, skera og sióda til safns, sem Rófukál. Sama er ad segja um Snid- Safa- og Rapa-kál yfir jordu, ef

megn

megn frost ecki skyldu leysa þeßum tegundum að standa, til daglegrar nautnar, framyfir Mikaelsmeßu og lengur, sem annars best fer.

Merk: Af kálseyði má ágæta sýru tilbúa, skal það þá aptur heitt, og í því soðin Blóðbjörg og Vallhumall, síðan helltá hreina, keimlausa tunnu, og þar saman við einn fiórði eða fimti partur góðrar dryckjar sýru, teppt síðan og látið standa fram á útmánuði. Betur fer, að kál, sem ætlað er til safns, se heldur lin- en ofsoðið, því það meirnar með gjeringunni. Um söltun Hvítkáls, sjá Frú Asessorinnu M. M. Stephensens vel samda Matreiðslu Vasaqver, bls. 79, mætti því einu þar við bæta: að blöðin af hverri plöntu eru lögð á víxl, þau smærstu inst, og svo í strangngul samanvafin. skorin síðan þvert yfir smátt og jafnt á borði. Í 2 handfyllir af þannig skornu káli, duga 2 matskeiðir af salti, úr líku sinni yfirsáðir og svo frv., sem þar fyrisegir

30. Sp. Hvað er við innsöfnun Kálrótna athugandi?

Sv. Undir og um sláttarlok, 20 vikur af Sumri, og úr því, eptir veðurlagi og þar sem nockru nemur, velji menn þurrann dag að taka upp Rófur; skulu þær, að afskornu öllu grasi og rætlingum, jafnóðum lagðar út til þerris,

og sídan innbornar á þurrt skjemmugólf, dreift, en ecki mjøg mikid saman, eda, sem betur fer, se spilad undir þær bordum, kláfum, hripum eda meisum, svo lopt nái hvervetna um þær leika, medan þær eru ad dampa nockud frá ser gródskusagganum, liggi þannig nockra daga, þá skulu þær á ný vidradar, helzt vid vindi, og svo nidurlagdar í kistu eda kjer, sem setjist á þurrann, svalann stad, undir palli eda á frambæar loptum, hvar síst er hætt vid frosti; en hvar meira er umvælis, í þurrt jardhús eda grysju, ádur uppgyldta af skrælnudu heytorfi, eda í holadann hól utanbæar, þar vatni veitir hvervetna frá, eda, sem einna best fer, giada þeim í merg á þurru, ómygludu og hitalausu heyi, svo hálfønnur alin se til hlida, og vel þad upp af, má svo ná til þeirra um holu þegar vill, en vandlega skal í hvørt sinn byrgja holu þá aptur.

Merk: Reynt er, ad ecki þarf, framar enn vill, vid Ræpur eda Rófur, millilag af øsku, sandi eda þvilíku, einúngis seu þær vel þurrar eins og plátzid eda ílátid, og eckert ad þeim þreyngt. Fyrst skal eyda Ræpum, eru þær gódar Sumar-ávørtur, en gljúpna og missa smeckgædi þá fram á

Vetur

Vetur lidnr. Hentari eru þær til graута og mjólkur-vellings saxadar eñ kjötsúpu, þar eiga Naparætur, bótselskar, lángar og raudar Rófur betur vid. Rófur allar, en einkum þó Naparætur, má ysrid vel nota sodnar og sundurkreistar til braud-drýginda og kökugjördar, (sjá E. Olafss. Maturtab., bls. 80.) í sama máta mat-kál smáskorid, sodid og hnodad svo saman vid mjøl.

31. Sp. Hvørninn skal Kál hópad?

Sv. Hentast er Grænkál til hópunar, fer þad verk þannig fram: Undir eda um Veturnætur takist kálcikurnar upp med rótum og moldu allri, sem vid þær getur lodad, og setjist saman í rødum, svo þjett sem verdur, í uppstúngna moldu i gardshorni móti sólu, og þrýstist sú uppstúngna mold vel ad stofnum; nú se rept yfir og ad framan, tyrst svo og skýlt hvad verdur ad med þángi, sefi, tjarnastør eda marhálmi, má svo standa og komast ad til brúkunar eptir þørfum.

Merk: Ágæta fyrisøgn um Kálhús og kálinnsetningu, sjá E. Olafss. Maturtab., bls. 35-39, en sá máti er þeim einum hentur, sem eitthvad bein í hendi hafa, samanber ádur áminnst Matreidslu Vasaqver, bls. 79.

32. Sp.

32. S. Nú er mjer fýsn að vita, hve nota megi Kál og Rætur til Frævatekju?

S. Til hennar skal velja enar fullkomnustu Kálrápa plöntur yfir og undir jörðu, gallalausar Ræpur, bótfelskar og lángar Rósur; af eikunum sen numin neðstu og stærstu síðublöðin, má þær síðan setja efst við garðinn, þar kálið er hópað fyrir framan, en taka verður þær varlega upp og setja niður, að sem minst raskist rætlingar, hreykja vel upp með stofnum og búa að sem verður. Þegar nú brúkunar kálið er burt frá kálstockum þeßum tekið, skal láta þá standa eptir, en búa betur að með moði og mykju-bræðingi hátt upp með hvörrar eikar stofni, og skýla sem best að, ofan og framan, ecki sakar, þó síðar skefli snjóa yfir umbúnaðinn. Að vori, þegar snjó leysir, skal smámsaman gefa þeim frítt lopt, fyrst með því, að rífa holu til á umgjörðina, og svo, þá betur fram á líður, eptir Sumarmál, taka hana að öllu ofan, en nema af stofnum dauðu og visnu blöðin, fá þá Fræómæður þeßar nýtt líf og þroska. Betur fer að setja spækur niður með þeim, og binda lauslega til stuðníngs, þegar stángirnar taka háar verða, því ella vill þeim slá útaf í veðrum. Nú sem fram á Sumar líður, hleypur staungin í blóm; en að því sollnu, stendur eptir

qven-ſkaungullinn, ſettur aflaungum, ſbjúgum belgjum, ſem heita frjóhyldir, innaní hvorjum fræið liggur í tvíſettri røð, og markar fyrir að utan. Þegar nú fræhyldir þeßar taka að þenjaſt vel út, trjena, blikna og opna ſig, teiknar það, að fræin eru fullroſknuð, ſkal þá ſkera af greinirnar með hyldunum á, binda ſíðan í ſmá knippi, og leggja hvørt út af øðru í trog, en það í vindſvalt útihús eða hjall, og þurka við vindi nockra daga, opnaſt þá hyldirnar æ betur. Nú ſkal fara að þreſkja með því móti, að volka hvørt knippi lempilega handa á milli yfir trogi, og að því búnu, ſlá því þjett niður við trogs-barminn, hrynur þá kornið úr hyldunum, en aðgæta þarf hvørja grein fyrir ſig á eptir, hvørt ecki ſeu enn óbroſtnir belgir. Svo ſkal fræið vinſað, þurkað á ný við vindi og geymt vand-lega í velþurru íláti, ſvo ſem undir í trafa-øſkjum, þar hvørki er ſlagning nje froſt að óttaſt, heldur ecki hyru mikla.

Merk: Geyma má kálſtocka til frævatekju, með því að ſetja þá niður í körfu eða kjernu, og búa um með garðmoldu, láta ſvo ílátið ſtanda á þurrum ſvølum ſtað, hvar þó ecki til muna frýs, uns það ſtrax að vori er ſett út, fyrſt í mildu veðri um hádag, en tekið inn að qvøldi hvørju á meðan næturfroſt vara; úr því mega kál-

ſtockar

stockar þeßir gródursetjast á hentugnm stad úti gardi, sem fyrr segir. Af Næpum þeim og kálrótum, sem inni hafa geymst ófkemdar Veturinn yfir, en allt gras var afnumid ad hausti, má líka frjómædur hafa, seu þær heutuglega, sem ad ofan getur, settar út ad vori, en þad er adgætandi, ad fræ þad eitt er af þeim brúkanlegt, sem vex innst upp af hjartastaunginni, hitt ecki af sidugreinunum.

33. S. Verdur kál og rætur notad til fleira enn þegar talid er?

S. Já! til margfaldra breytinga hentar hvorntveggja vel í matreidslu mentinni, sem hjer heyrir ecki til; einúngis gat eg kál-notkunar til vetrarferda í 29dn Spurn., og skíríngar-greininni þar vid, sóru tilbúnings af kálseydi, einig nytsemis rótna og matkáls til braud-drýginda, í 30tu Spurn. skíríngargrein. Hjer ad auki er smáskorid kál, med fjallagrøsum eda mjøli, ella einsamalt og smábitadar rófur, vel brúkandi til drýginda í blódmør á hausti. Sømuleidis er Næpna-mjólk og Rótna-vellíngur, þad er: Næpur og Rófur smáskornar og sodnar med mjólk eda mjólkurblandi, lítid mjølkestar, einnig sodnar og stappadar med smjøri og hveitimjøli,

og svo til skjaldhafnar framreiddar ásamt slátri, ágætur matur og mjúkt nærandi. Med Káli og Rófum má svo kjötmat drýgja í búnadi, ad eins manns skamtur af slátri, óskiulaust, nægir fyrir það handa 3ur eda 4um persónum; ætti því hverjum hugarhaldid vera, ad nota sem laglegast heima oblud búsaung sín, einkum slátursé, og höggva það heldur nidur í spad, enn reykja, sem verst gegnir til heimilis notkunar, þar bædi er það ódrjúgast og óhollast; mundu þá sveitabændur sídur þurfa ad rænast eptir eunm dýru fiski- og korn-saungum, færri qvartanir heyrast um sárann bjargarskort, en almennari ánægja ávinnast af notasælum ávexti eigin atorku og starfsemi vid gardyrkjuna.

Merk: Notkan kál-úrgángs alls handa mjólkurkúm, liggur hverjum í augum uppi; óskandi væri ad máturtarækt kjæmist í svo gott horf, ad menn til muna mist gætu frá mannældi hid stakasta Rófnakál handa kreytukúm á hausti, þá mundu þeir ecki taka Steininn í stadinn. Þegar 10 pund tvíhristrar tödu úr stáli vóru og eru metin 1 fiskvyrdi á landsvísu, mundi víst ecki ósanngiarnt ad selja maturtir þannig:

| | |
|---|---|
| 15 pund næpna- og lakasta rófna-káls | 1 fisk. |
| 10 pund Rapakáls undir jördu | 1 f. |
| 7½ pund Græn- Hvít- og Sasa-káls | 1 f. |

5 pund

4 pund Næpna . . 1 fisk.
3 pund Rófna . . 1 f.
5 pund Kálrapa róta . 1 f.

34. S. Eru nú upptalin øll þau not, er af káltegundum má hafa?

S. Fleirst það, er nockru nemur, hefir eg hjer að framan talið, þó má því viðbæta: að fyrir utan manneldi, er kál einnig hæft til lækninga, svo sem: hrár løgur, er pressast úr ofanjarðar káltegundum, þó einkum Græn- Rauð- og Hvít-káli, blandinn með ediki eða sýru og tekinn inn, er margreynt eitthvørt hið besta meðal til að gjøra liðugann vallgáng þeim mønnum, sem áður þjáðst af harðlífi. Það er og ávallt athugaverdt: að heldur skyldi lin- enn ofsjóða kálmat, því offoðinn, verður hann bæði miður holl fæða, missir sinn náttúrlega næríngar krapt, og orsakar líka harðlífi og tregar hægðir. Kálfræ steytt, og tekið inn í brennuvíni, leysir orma úr óhreinnum maga. Kálblød mega og vel brúkast í plástur's stað, til að leggja við sleiður, skeinur og qviku, sem verður eptir Spánsflugur, þegar með þeim er brennt, og ønnur grunn svøðusár; skal þá snúa að sárinn yfirborði blaðanna, sem horfir mót lopti og sólu,

hreinsa Þaung og draga vel illvessa, Þegar um er skipt að morgni og qvoldi, og nó blod látin í hinna visnuðu stað, en undirbordi Þeirra se að snúið, Þegar græda skal, eru Þaug mun mýkri vidkomu enn plástur, og að Því leiti hentaki horundssárum. Næpnafræ látið í vín og bleytt Þar um hríð, druckið síðan hvort med ödru, opnar og dreifir. Vatn má líka brúka í víns stað, er Það sagt gott við kolduslóki og Bólnasótt, skal einnig deysa offreka lostasemi. Næpur, Rósur og Kálrætur hóflega bordaðar, einkum af erfidisfólki, svala vel og orka matarlyst, bæta meltíngu og magaslím, leida Þvagstein og tídir qvenna, en eyda skirbjúgi; Þó skyldu sóttlera manneskjur, og Þær ed súrann hráslaga maga hafa, varast að eta Þær, til munu, hráar, hollastar eru Þær matreiddar í grautum, súpu, sloppu eda í braudi (sjá skiring, við 30tu Sp.). Hvanna- og Pipar-rótar, samt Skarfakáls, hefir eg að eins getið að framan (11tu Sp.), eru Þær urtir allar ágæt meinabót.

Merk: Hvannlögur eda Vín, sem stadið hefir á Hvannarót, Þynnir blód, orkar útdömpun, svita og klædafoll qvenna, flýtir fædingu og eptirburdi, læknar hjartslátt. Urtin er haldin kroptugasta medal gegn sótt-

sóttnæmi, drepsótt og citri, þegar hún er borðuð að morgni dags, eða hofð í munni sér og tuggin, eða druckinn sopi af ediki, sem á henni hefir staðið, dreifir það líka staðnuðu vondu blóði, læknar innvortis meinsemdir og eyðir illveðum. Rótin styrkir maga, eyðir og dreifir vindi, drepur orma, linar síðusting, brjóstveiki, tannpínu og gömlum hósta, se hún opt tuggin, helst framan af degi. Hvannafræ tekið inn með hunángi eða brennuvíni, sem lengi hefir á því staðið, læknar Gulusótt.

Piparrótin hefir margar dygdir til að bera, hún er einhvör hollasta urt móti Skirbjúgi og holdsveikin, hóflega brúkuð. Vín, sem á henni hefir staðið, drepur orma í mönnum, að qvöldi druckið, það eyðir og þvagstemmu að morgni sopið og lagar alla magans óreglu, hreinsar blóð, bætir hæsi og þurrann hósta, blóðspýju, fótaveikju og vatnssótt. Blöð hennar sundurrifin og velgð í vatni, lögð síðan við brennandi meinakomu, kæla vel og dreifa.

Skarfakáls ypparlega heilnæmi og nytsemd til manneldis, er af mörgum viðurkennd, og í því tilliti er þessi innlenda villiurt farin að njóta ræktunar í Aldingörðum, einkum í Barðastrandar og Ísafjarðar sýslum, líka á stöku stað norðan og austanlands, enda telst hún líka af Læknum eitt hið kroptugasta meðal gegn skyrbjúgi og tíðateppu, samt öðrum illveð-

um í mannlegum líkama. Ad setja gott kornbrennuvín eda franskt vín á Skarfakáls blómstur, gefur hollann dryck brjósti og maga, fastandi sopid ad morgni, þynnir þad blód en dreifir vindi; gott er lika ad skola med því munninn vid andremmu. Gott franskt brennuvín, sem stadid hefir á Skarfakáls blómi hjer um 3 mánudi eda lengur, er reynt ypparlegt ad smyrja med kuldabólgu; þó enn betra ad væta línrýju í sama legi, og leggja yfir kuldaþrotann.



## V. Grein.

### Hugvekja um Jardepla ræktun.

35. G. Margann heyri eg hrósa Jardeplum, er mjer því hugleikid ad spyrja loks um þeirra ræktun?

H. Vísad get eg þjer, um þad efni, til H. W. Levers velmeintu Avísunar til Jardepla ræktanar, sem prentud er í Leirárgørdum, 1810; er Ritlíngur sá því trúverdari, sem hañ bygdur var á reynslu þeß er reit. En sagt get eg þjer stutt ágrip reynslu minnar, hvad þó ecki verdur añad enn sønnun tjedrar Avísunar, samt Prestsins J. R. Trojels Agrips um Jardepla Nytsemd og Ræktun, Khøfn, 1772,

og

og Løgmanns-Esnis E. Olafssonar Maturtab. §§. 59-69, er þad þetta: Kuldi og væta mikil af jørdu eda lopti er Jardeplum yfir høfud skadlegt; elska þau ad vel se ad þeim hlúd, og krefja þurra, lausa, steinsandi og øsku blandada feita jørdu, er liggi í brecku móti sólu, þar vatn hefir eckert vidnám; mikinn og hentugañ áburd, helzt gamalt sauda- eda hroßatad (6tn sp. skgr.). Se ecki skipt um jørd añadhvørt ár, þarf tedslúna tvøfaldt meiri. Moldin se duglega vel djúpt og smátt uppstúngin, ad miñsta kosti 2svar á vori. Utsáds epli, sem upp skulu tekin úr grysin eda geymslu íláti strax um sumarmál, seu þegar breidd út um lopt eda í trog, og þakin øfan med ómygludu stráspurrn útheyi á svølum stad, og látin svo liggja, uns sett eru. Varast skal ad meida ángana er nú vaxa fram, líka augun, þegar en stærri eplin eru sundurskorin, sem fullvel má í 3, 4 eda fleiri parta, se eplid yfir 5 lód ad þýngd, en vidra skal styckin 1 dag eda lengur, ádur sett eru. Ad þeßu vandlega adgættu og undirbúnu, er útsádstídin 4, 5 vikur af sumri eptir vedurfari, og se valinn þurr og hlýr dagur, því ecki má setja Jardepli í votu. Nú eru valin, ef í er ad velja, þau hnøttóttu

lgulu

gulu epli, helst þau midlúngs stór, er vega hjer um 1 til 2 lód, heldur yfir enn undir, og þá sett þannig: Fyrst eru reitir afmarkadir, 1½ alin á breidd, med mjóum og grunnum gøtum, frá brecku-brún og nidur úr, gánga svo 2 ad verki, sem fljótast er, finn hvørjumegin reitsins, og byrja ad ofan; annar stíngur holur med spadanum, 3 í reits breidd á víxl, eins og fyrir var mælt vid fræsetníngu (180u Sp.), en mælir set hola á milli, eptir lengd og breidd bedsins; hinn — sem vera má únglíngur — er girdtur skautklædi eda svintu, hvar hann hefir eplin í, en skjólu vid hlid med myldnu sauda- eda hrossatadi, af því tekur hann væna lúku, varpar í holuna, sem hinn stíngur fyrir qvartils djúpa, og á medan hann er ad taka til eplid, breidir þessi med spadanum, lítid af þurri moldu ofaná, eda hrærir saman vid tadid, þar á ofan leggur hinn 1, 2 eda 3 epli, eptir stærd þeirra, en þessi fyllir holuna med moldu úr þeirri nærstu ad nedan, vid hvørja eins er farid, og svo holu af holu þvert og endilángt, uns reitur sá er settur, loks er hann vel jafnadur ofan, hóla og lágalaust, en veiti þó heldur til beggja hlida ad gøtum; eins er adfarid vid nærsta reit. Nú er eplagardur alsettur, lída þá 3 eda 4 vikur, uns grasid sjest ofan moldar, enda eru þá strax

rákir

rákir rísþadar eptir endilaungum reitnum (sjá 24du Sp.), og arfi um leid vandlega hreinsadur frá enn únga eplagrasi, en hreykt um leid hóglega upp med því, sem ítrekad se fyrst ad viku, svo hálfsmánadar fresti fram í midjan Augústs mánud, og láta þad ecki fyrifarast. Því fyrr og almennar urtin blómstrar, því óyggjanlegra góds ávaxtar merki er þad tídast; setur hún fyrst ljósgræn blómsturhöfdi, þessi útsprúngin gefa himinblá, þá siólblá og loks hvít blómstur blod, en blómknappurinn er fagur saffrán-gulur, og er nú lóst þeim hnottóttu gulu eplum; hin raudu hnottóttu, og þaug aflaungu bera hvít blóm. Fyrir, um og eptir Mikaelsmessu er uppskjeru tíminn, í þurru vedri, þá er eplagrasid tídast fallid ad mestu, og þaug því hætt ad spretta; fer þá best ad einn stíngi fyrir, hálfu feti frá grasinu, annar taki vid og tíni eplin af, en hinn leiti á medan med spadanum í holunni. Upptekin breidast þau strax út til þerrirs í eitthvad fatkyns, ad því hægra og fljótara se ad ná þeim saman ef vidliggur, og liggi svo uppi, helst á vindsvolu lopti, nockra daga, þángad til þau nidurleggjast til geymslu, eru þá lesin frá midlúngs epli þau fjöleygdustu, til útsáds ad vori, vandlegast þurkud og best um búin, vidlíkt og kálrætur (sjá 30tu Sp.), þeim smáu skyldi

fyrst

fyrst eyda; er hentast ad skiera þau smátt med káljárni og hafa til mjólkur-vellings eda í blóðmör. Þau stórn mega ad mánadarfresti brúkast til hverskyns nautnar sem vera skal, svo sem: heil, flysjud og sodin eda á linum glædum og í pønnu steikt og bordud med smjöri, eda stór- og smáskorin í blódmør, eda sodin, flysjud og kold løgd nidur í súrmat, eda skorin og steypud høfd til grauta eda vellings, þá til branda ad þridjúngi, já, helfingi móti rúgmjøli eda hveiti, og til ótal fleira má nota þau ágætu Jardepli.

Merk: Þó Jardepli sen víst einhverr hinn vandhæfasti ávøxtur ad rækta, í stormа og stórrigningasømum plátzum, svo sem hjer er vídast sunnanlands, og vandhæfara lángtum enn nordanlands, hvar møllum, frækjum og smádøggu vída vidrar, þá mundi víst ecki ógiørningur ad leggja alúd á svo ljuffengs og nytsams ávaxtar ræktun, sem einkum ríður á medan eplagrasid er fyrst ad brjótast fram, skyldi þá vandlega nema arfa, hreykja og hreysa moldina eptir hverja rigningu; þarf þá lyptingar sítur vid, sem annars er vandaverk, svo ecki slitni eplin frá eunum støcku frjóræxlingum, þegar kjerfid lyptist upp; en hvørt epli sem frálosnar, hættir undir eins lengur ad spretta Sannreynt er, ad jardepli missa smámsaman frjóvgunarkrapt vid kulda og í sømu jørdu þrásett, mundi því gott, bædi

ad

ad skipta um jörd vid þau, og eins sá vid og vid epli frá útlöndum til endurnýungar; einkum þau nývaxid hafa af fræi.

* * *

Nú þykist eg hafa gesid þjer úrlausn nockra til Spurnínga þinna, Gestur minn! skaltú nú siálfur reyna hvert ecki er satt sagt; eg spái þú munir sanna sjón þina og reynslu allri sögu ríkari.



# Athuga-greinir.

## Vid 14du Spurníngu, bls. 17.

Nú er gott og nýtt fræ blandid gömlu og lítt- eda ó-nýtu, en hvorttveggja sockur í vatni, (því ecki flýtur nema þad kiarnalaust er og ormstúngid, og skal því fyrst burtvarpad) þá má greina hitt hvort frá ödru med því móti, ad leggja þad vota fræ, er sock, dreist inn í prentpappír, og þurka svo um nætursakir vid hægann il undir koddabrún, mun þá ad morgni er um er vitjad, siást mygla slegin út úr þeim gömlu frækornum; þessi eru nú tínd úr, en hin gulu og hreinu má sídan ugglaust setja korn

fyri

fyri korn í útreiti. Er sú athugagrein einkum nytsamleg þá settar eru Næpur og Rófur.

## Við 16du Spurníngu, bls. 18.

Sökum þess, að Gródrarstía og Vermibeð drífa voxt plantanna helzt til hæðar, vegna ils að ofan og neðan, þá er nauðsynlegt að lypta (lufte), eða gefa úngurtunum frítt lopt á degi hverjum, þegar þurrt og hlýtt veður er, úr því þær fara að spretta fram, gjörist það með rúmlega álnar lángri flatri spítu, í hverrar kant höggvin eru hök eða stigar 3 eða 4, hvört upp af öðru, sett sú að framanverðu undir hlerann eða spækina, sem liggur fremst undir hrísinu, lypt svo öllu upp, fyrst á neðsta hak spítunnar, nockra daga, svo á 2að, þá á 3ja, og síðast á 4da; þroskast við það plönturnar og venjast loptinu.

## Við 19du Spurníngu, bls. 22.

Víst er sá máti vissastur, sem hjer er ken̄dur, til að uppræta plöntur úr sáðreit svo ecki meiðist, en þá fara líka margar þær, sem nú eru mjög smáar eða farnar fyrst að spretta fram, til spillíngar; væri því öllu betra þeim, sem handlaginn er, að lidka upp stærstu plönturnar fyrst frá hinum og gródursetja, og svo hverja að annari, eptir sem þær þroskast, en hinar sídgrónustu standi kyrrar að lyktum, og vaxi í skúfa-kál

Bls. 28, l. 28. Selakeppir les: Sigakeppir.



